★ VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

**Vietnamskt herlið út úr Kampucheu** Sjá leiðara

**Kirkjusandur:** Sjá bls. 3

**Undansláttur forystunnar**

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista) 1.tbl. 4.árg. 17.jan.- 31.jan. 100 kr.

## 8. mars:



## Baráttudagur kvenna

8. mars er alþjóðlegur baráttudagur kvenna og hefur verið það síðan 1910. Íslenskar konur hafa þó lítið af því vitað, enda er það svo að þrátt fyrir fórnfúst starf margra heiðarlegra alþýðukvenna, er engin skipulögð kvennahreyfing til hérlendis, hreyfing sem starfar á grundvelli stéttabaráttu og leggur hagsmuni verkakvenna til grundvallar í starfi sínu.

Verkalýðsblaðið vekur sérstaka athygli á því, að nú hefur hópur fólks ákveðið að beita sér fyrir baráttufundi 8. mars 1978 á grundvelli stéttabaráttunnar. Verður stofnfundur 8. mars-nefndar haldinn miðvikudagskvöldið 1. febrúar að Freyjugötu 27 (í sal rafvirkja og múrara) og hefst hann kl. 8.30. Hvetur frumkvæðishópurinn allar konur (og karla) sem efla vilja verkalýðssinnaða kvennabaráttu að fjölmenna. EIK(m-l) hvetja félaga og stuðningsfólk samtakanna til að leggja að mörkum starf í 8. mars-nefndinni.

Á stofnfundinum verða ákveðin höfuðkjörorð aðgerðanna 8. mars, en gert er ráð fyrir að baráttukröfur miðist við innlenda og alþjóðlega baráttu verkakvenna. Eftir stofnfundinn verður nefndin og stefna hennar svo væntanlega kynnt í dreifiritum.

GERUM 8. MARS AÐ BARÁTTUDEGI ÍSLENSKRA VERKAKVENNA!

JAFNRÉTTISBARÁTTA Á GRUNDVELLI STETTABARÁTTUNNAR!

# Sigur á Kristneshæli

Verkalýðsblaðið hefur áður greint frá baráttu starfsstúlkna á Kristneshæli við Eyjafjörð, en þær hafa barist fyrir því að fá laun í samræmi við þá staðreynd að þær eru látnar ganga í verk sjúkraliða og fengu talsvert lægri laun en sjúkraliðar fyrir sams konar vinnu. Þannig sparar ríkið sér stórar fúlgur og þetta fyrirkomulag er þekkt frá öðrum heilbrigðisstofnunum. Nýlega fengu starfsstúlkurnar 7% kauphækkun, þ.e.a.s. þær sem unnið hafa sex mánuði eða lengur. Þessa kauphækkun fengu þær ekki fyrirhafnarlaust, heldur var þetta árangur vel skipulagðrar baráttu, sem háð var í andstöðu við yfirmenn Kristneshælis, fulltrúa fjármálaráðuneytisins og síðast en ekki síst Jón Helgason, formann verkalýðsfélagsins Einingar. Eftir alllangt samningaþref,

Framh. á bls. 5



## Hjúkrunarnemar:

# Berjumst fyrir samningsrétti - fylkjum liði 1. maí!

"Við verðum að berjast fyrir samningsrétti og fylkja liði 1.maí!"

Þetta mælti Laufey Jónsdóttir hjúkrunarnemi er VBL. talaði við hana og Herdísi Alfreðsdóttur vegna kjarabaráttu þeirrar sem hjúkrunarnemar hafa háð síðan í maí s.l.

"Við náum engu fram að ganga nema með því að nota þau vopn, sem við höfum, sagði Laufey ennfremur. "Alltaf vantar starfsfólk á spítalana, bæði sjúkraliða og hjúkrunarfræðinga. Þess vegna og vegna þess að lítið er um að útlærðir hjúkrunarfræðingar vilji taka aukavaktir tökum við hjúkrunarnemar mikið þær vaktir til að geta séð okkur farborða. Einu sinni notuðum við vopnið: "bann við að taka aukavaktir" þegar við áttum að fá venjulegt tímakaup fyrir aukavaktirnar eftir bóklega dagvinnu. Við fengum kröfum okkar framgengt þá fljótt og vel, því það skapast strax ófremdarástand á sjúkrahúsunum þegar vinnuafls okkar nýtur ekki við."

Framh.á baksíðu



# GEGN SÖLU SIGLÓ-SÍLDAR

Staðreyndir margra ára sýna að afstaða kommúnista til ríkisreksturs fyrirtækja við núverandi þjóðfélagskerfi er rétt.

Ríkivaldið er valdatæki auðstéttarinnar, sama hver ríkisstjórnin er, og því ekki neinn grundvallarmunur á einka- og ríkisfyrirtæki. Aukinn ríkisrekstur táknar ekki "aukinn" sósíalisma - heldur styrkara einokunarauðvald. Hér á Íslandi hefur ríkisvaldið verið nýtt til að fjármagna mjög

Framh. á bls. 5

# LANDSSMIÐJUMÁLIÐ

Nú upp á síðkastið hefur "nefnd um minnkun ríkisumsvifa" nokkuð verið í fréttum, vegna tillagna hennar um að leggja niður Landssmiðjuna og selja nokkur önnur ríkisfyrirtæki. Svo virðist sem Landssmiðjan sé eina fyrirtækið sem leggja á niður. Fátt er um útskýringar á þessari niðurstöðu nefndarinnar, en helst er að skilja að þetta sé gert til að "hindra samkeppni við einkaaðila" og stuðla að "frjálsri samkeppni". Svo er amk. látið líta út. En hver skyldi vera sannleikurinn í þessu máli.

### Ríkisafskipti

Ríkisafskipti og ríkiseign eru íslensku auðvaldi ekki nokkur þyrnir í augum, ef þau afskipti stuðla að hámarksgróða þess. Til að mynda leggur ríkið fé til allra stærri framkvæmda (Álver, járnblendi, Áburðarverksmiðjan ). Ríkið og stærstu fyrirtæki og fyrirtækjasamsteypur eru meira og minna sambrædd og allir helstu bankar eru í ríkiseign. Ríkisafskipti eru að ósk auðvaldsins sjálfs og ríkið er hluti af því. Af þessu ætti einnig að vera ljóst, að ríkis-

Framh. á bls. 5

**Styðjum uppbyggingu Verkalýðsblaðsins!** Sjá bls 2





# VÍETNAMSKT HERLIÐ ÚT ÚR KAMPUCHEU

Kampuchea (Kambodía) og Vietnam hafa átt í deilum um staðsetningu landamæra milli ríkjanna tveggja. Á síðasta ári komu öðru hvoru í fjölmiðlum óljósar fréttir um átök á landamærunum og svo gerðist það skömmu fyrir áramót að deilurnar hörðnuðu til mikilla muna.

Samkvæmt upplýsingum frá yfirvöldum Kampucheu hafa víetnömsk herlið ráðist inn í landið meðfram hinum 800 km. löngu landamærum sem Víetnam á að Kampucheu. Harðast hefur þó verið barist á svæði sem kallast Páfagauksnefið, en um það liggur þjóðvegur 1, sem tengir Phnom Penh, höfuðborg Kampucheu, og Ho Chi Minh-borg, sem áður hét Saigon. Víetnamar hafa um 40 km. af þjóðveginum innan landamæra Kampucheu á valdi sínu. Víetnamstjórn hefur boðið stjórninni í Phnom Penh til samninga um þau svæði sem deilt er um, en Kampuchea-menn neita að taka þátt í samningum á meðan víetnamskt herlið er á Kampucheansku landsvæði.

RÉTTMÆT KRAFA

Alþýða Kampucheu og Víetnams hefur háð blóðuga baráttu gegn heimsvaldastefnu og kúgun, sem lyktaði í báðum tilfellum með hetjulegum sigrum alþýðunnar. Það eru því hagsmunir þjóðanna beggja að deilur þær sem nú eiga sér stað verðir leystar sem fyrst á friðsaman hátt. Þess vegna er krafa Kampucheu um að Víetnam dragi öll sín herlið út úr landinu áður en til saminga geti komið, fullkomlega réttmæt krafa.

Sósíalheimsvaldasinnar að verki?

Þessi átök milli alþýðulýðveldanna tveggja kunna að vekja undrun meðal andheimsvaldasinna. Sovétríkin virðast hafa náð nokkrum ítökum í Víetnam í gegnum "stuðning" sinn við uppbygginguna þar, og eins og komið hefur áður fram í Verkalýðsblaðinu, þar sem Sovétríkin eru annars vegar með heimsvaldastefnu sína er ekki góðs að vænta. Þau reyna ætíð að kynda undir óeiningu milli þjóða 3. heimsins sínum eigin hagsmunum til framdráttar. Þetta á ekki síst við um Kampucheu og Víetnam. Sovétríkin börðust beinlínis gegn frelsisstríðinu sem alþýða Kampucheu háði gegn heimsvaldastefnu Bandaríkjanna. Það gerðu þau, m.a. með því að styðja og styrkja hernaðarlega Lon Nol klíkuna sem Bandaríkin komu til valda í Kampucheu árið 1970. Eftir frelsun landsins hafa Sovétríkin unnið að því leynt og ljóst að einangra Kampucheu á alþjóðavettvangi.

Samkvæmt síðustu fréttum virðast landamæraátökin vera nokkuð í rénun og gæti það bent til þess að gangur mála sé að færast í rétta átt. Það er ósk allra andheimsvaldasinna að deilur Víetnama og Kampuchea verði leystar á friðsamlegan hátt. Hér er ekki um ósættanlegar andstæður að ræða, sem aðeins verða leystar með átökum eins og er milli alþýðu þessara landa annars vegar og heimsvaldastefnu hins vegar. En til þess gæti komið ef sósíalheimsvaldasinnarnir færu að blanda sér í málið

Afstaða EIK(m-l) til þessara atburða er sem hér segir:

1. Allt erlent herlið hverfi úr Kampucheu og úr Víetnam. Aðilar setjist síðan að samningaborði og leggi einingu 3.heims ríkjanna til grundvallar lausnar á landamæradeilum sínum.
2. Sjálfsákvörðunarréttur sérhverrar þjóðar, pólitískt ríkjasjálfstæði og sjálfræði er grundvallaratriði, sem ekkert ríki hefur rétt til að brjóta.

EIK(m-l) fordæma ósannindi og villandi upplýsingar sem íslenskir fjölmiðlar, þ.á.m. Þjóðviljinn gefa, en hann hefur m.a. tekið afstöðu gegn Kampucheu.

# ÚR STARFINU

## Kveðjur frá EIK(m-l)

EIK(m-l) sendir baráttu- og félagakveðjur til CCL(m-l) (Canadian communist league) í tilefni II. þings samtakanna. Samband öreiga Íslands og Kanada hefur ævinlega einkennst af vináttu og stuðningi á báða bóga. Nú þegar bæði löndin hafa marx-lenínísk samtök mun vináttan enn styrkjast. EIK(m-l) óskar CCL(m-l) til hamingju með árangursríka baráttu þeirra fyrir sósíalisma og flokksbyggingu og hagsmunum kanadísks verkalýðs og hins vinnandi fjölda.

Lengi lifi marx-lenínisminn og kenningar Mao Tsetungs!

Lengi lifi CCL(m-l)!

Lengi lifi vinátta og samstaða kommúnista og alþýðu Kanada og Íslands.

□

Til Kommúnistaflokks Svíþjóðar:

EIK(m-l) sendir baráttu- og félagakveðjur til systursamtaka sinna í Svíþjóð í tilefni af 5 ára afmæli flokksins.

Lifi marx-lenínisminn,hugsanir Mao Tsetungs!

Lifi SKP!

Lifi alþjóðahyggja öreiganna!

□

Marx-lenínísk blaðaútgáfa í Tyrklandi sætir ofsóknum hersins.

Fyrir stuttu voru ritstjórar marx-lenínísks dagblaðs (Halkin Sesi) og tímarits (Adynlik) í Tyrklandi handteknir og leiddir fyrir herdómstól sakaðir um að hafa sýn hernum óvirðingu. Það hefur áður komið fyrir að ritstjórar þessara blaða hafa verið dæmdir af herdómstólum þar í landi. Þessi tvö blöð hafa átt stóran þátt í að afhjúpa fasisma hersins og öryggislögreglunnar. "Gráu Úlfarnir" stóðu á bak við morðin í Istanbul 1.maí 1977 en þar var gerð árás á fólk í kröfugöngum.

Eik(m-l) hafa sent Halkin Sesi og Adynlik baráttu- og stuðningskveðjur og taka undir kröfurnar:

Burt með afskipti hersins af blaðaútgáfu!
Frelsi til handa Yurdakul og Tütüncubasi og fjölmiðlum föðurlandsvina!

# „Kommúnistaflokkurinn": Enn einn klofningur

Verkalýðsblaðið hefur nokkrum sinnum sagt fréttir af klofningi svokallaðs "Kommúnistaflokks Íslands/ML", en á síðasta ári leið varla svo mánuður að ekki bærust fréttir af því að félagar í "KFÍ/ML" yfirgæfu hið sökkvandi skip. Er skemmst að minnast viðtals við þrjá fyrrum félaga "KFÍ/ML" í síðasta tbl. Vbl. Upphaf ársins 1978 varð heldur ekki gleðilegt fyrir endurskoðunarklíku þá sem ræður ríkjum í þessum "flokki". 2.janúar var haldinn "landsfundur miðstjórnar" og hann endaði með því að 4 félagar lýstu því yfir að þeir hafi snúið baki við "KFÍ/hópnum" og í sérstakri ályktun um þetta mál, greina þeir frá ástæðum úrsagnar sinnar.

"Baráttan fyrir marx-lenínískri stefnu og starfsháttum í flokknum skal háð undir merkjum heiðarlegrar gagnrýni og sjálfgagnrýni... Núverandi framkvæmdanefnd flokksins telst bera höfuðábyrgð á villum flokksins auk þess sem afstaða hennar til gagnrýni (sbr. álit hennar um brottrekstur þremenninganna) - (gagnrýni félaganna sem Vbl. ræddi við í des. var vísað algerlega á bug af leiðtogaklíku "flokksins" aths.Vbl.) hafa svipt hana öllu trausti."

Þau atriði sem talin verða upp hér á eftir telja flutningsmenn endurspegla stærstu villur flokksins, sem gagnrýnisherferðinni verði að beina fyrst og fremst gegn:

" I. Undansláttarstefnu fyrir endurskoðunarstefnu innan verkalýðshreyfingarinnar og ýmissa fjöldahreyfinga.

II. Klofningsstarfsemi flokksins innan marx-lenínísku hreyfingarinnar á Íslandi. Ber þar fyrst og fremst til hunsun flokksins á sameiningargrundvelli EIK(m-l) svo og röngu stjórnlistarverkefni í stefnuskrá.

III. Óljósri og tvöfeldnislegri afstöðu til baráttunnar fyrir sjálfráðarétti ísl. þjóðarinnar.

IV. Endurskoðunarsinnaðri afstöðu til forsögu KSML.

V. Endurskoðunarsinnaðri afstöðu til stéttgreiningar og fræðikenningar marx-lenínismans".

Þess má geta að félagarnir sem hér um ræðir eru allir búnir að starfa í KSML/KFÍ/ML árum saman, meðal annars var einn þeirra ritstjóri Stéttabaráttunnar. Samkvæmt upplýsingum sem Vbl. hefur aflað sér eru nú yfir 57% félaganna gengnir úr "KFÍ/ML" á árunum 1977-1978

Aðeins hluti þeirra sem eftir eru, teljast virkir í starfi, þannig að stöðugt verður minni "flokksbragur" á verkum þessa smáa hóps sem enn hangir í kring um Kristján Guðlaugsson trúbador.

Verkalýðsblaðið hvetur enn heiðarlega félaga "KFÍ/ML" til að kynna sér gagnrýni EIK(m-l) á"flokkinn" og þá sérstaklega gagnrýni fyrrum félaga hans, meðal annars í ritinu "Barátta gegn endurskoðunarstefnu". Þátttaka í starfi "KFÍ/ML" þjónar aðeins endurskoðunarstefnu og afturhaldi.

## Samtíningur

"Kommúnistaflokkur Íslands m-l" býður oft upp á heilabrot fyrir oss venjulega streðara. Margir urðu til þess að velta því fyrir sér hvers vegna "flokkurinn" neitaði að svara beiðni Baráttunefndar 1.des um stuðning við málstaðinn - og aðspurðir sögðu félagar hans að þeir styddu kjörorð nefndarinnar en vildu frekar starfa með stúdentum á 1.des. Þótti mörgum það þunnt svar. En heldur rofaði til þegar 43.tbl. Stéttabaráttunnar kom óprófarkalesið í hendur grandalausra lesenda. Þar birtist grein sem fjallaði um Baráttunefndina og aðgerð hennar 1.des. Þar kom það hreint og klárt fram að 1.des. var ekki réttur dagur til að efla hreyfingu alþýðunnar til verndar sjálfræði landsins, "flokkurinn" hafði kíkt á dagatalið og komist að því að 17.júní væri hinn rétti dagur. Var því öllum boðið til aðgerða þann dag. Undu menn svo glaðir við þetta í viku og hlökkuðu til vorsins. En lesendur fengu ekki að vera lengi með pálmann í höndunum, - í 44.tbl. var birt leiðrétting þar sem 17. júní-aðgerðin er afturkölluð og ekkert sett í staðinn sem gæti skýrt hvað "flokkurinn" hugsaði um málið. Við erum því jafn nær. En eitt er þó víst að hentistefnusamtök ættu ekki að gefa út vikublað, - það reynir allt of mikið á lesendur sem reyna að setja sig inn í stefnuna að þurfa að skipta um bylgjulengd á viku fresti.

# MARKINU NÁÐ!




Áskrifendasöfnun Vbl. er komin í höfn með stórgóðum árangri. En ekki má við svo búið standa, heldur stefna enn hærra og ná því marki að gera efnahag Vbl. öruggari og það verður aðeins með föstum áskrifendum. Við hefjum nýja söfnun og takmark okkar mun vera 200 áskrifendur 1.maí. Lesendur eru hvattir til að taka þátt í að efla hag blaðsins með því að gerast áskrifendur strax í dag.

# MILLJÓN fyrir 1.mai






Söfnunin fyrir prentsmiðjunni heldur áfram þar til prentsmiðjan er komin í höfn og Verkalýðsblaðið orðið algerlega sjálfbjarga, sem er auðvitað afar mikilvægur liður í marx-lenínískri hreyfingu og fyrir alla framsækna baráttu. Vbl. hvetur því alla lesendur blaðsins til að taka þátt í uppbyggingu þess. Takmarkið er 1 millj.kr. fyrir 1.maí og nú þegar er komið 160 þús. Gefið reglulega í prentsmiðjusöfnun. Sendið peningana í Gíró 12200 - 9, merkt prentsöfnun, eða greiðið til sölumanna Vbl.

# Frá ritnefnd: Við erum á réttri leið

Uppbygging Verkalýðsblaðsins gengur sæmilega vel. Bráðlega líður að því að við prentum blaðið í eigin prentsmiðju. Allar vélar og tæki eru komnar í hús og verið er að setja prentsmiðjuna upp. Þau tæki sem um er að ræða eru prentvél sem prentar Verkalýðsblaðið í núverandi broti í offset, ritvélar sem setja texta blaðsins, fyrirsagnavél, stór myndavél sem notuð er við stækkun og minnkun mynda og leturs, filmu- og plötuvél sem gerir offsetplöturnar fyrir prentvélina og ljósaborð sem notuð eru við umbrot blaðsins.

Þessi vélakostur verður að nýtast til miklu meiri verka fyrir EIK(m-l) og hina kommúnísku og framsæknu hreyfingu á Íslandi en til prentunar á Verkalýðsblaðinu eingöngu. Tímarit EIK(m-l) Rauðliðinn, Til baráttu og einstök hefti og bækur verða prentuð í þessum tækjum. Prentsmiðjan mun einnig prenta efni fyrir þær baráttuhreyfingar og samtök sem þess óska. Prentsmiðjan mun aldrei verða nýtt til prentunar á boðskap og áróðri borgaralegar og endurskoðunarsinnaðra afla. Við vinnum ekki verk fjandmanna verkalýðs og vinnandi alþýðu. Fjármögnun prentsmiðjunnar og uppbygging Verkalýðsblaðsins er alfarið gerð með því að safna til þess fé frá alþýðufólki. Þannig stöndum við á traustum grundvelli og treystum ekki á fjárgjafir ríkisvalds og borgara, eins og borgaralegu blöðin.

Safnanir samtakanna til prentsmiðjukaupanna hafa gengið frábærlega vel, en ekki átakalaust. Enn einu sinni leggjum við af stað með söfnun og setjum markið hærra en áður - 1 millj. fyrir 1. maí - þetta er alls ekki óraunhæft markmið, en það mun kosta mikil átök og baráttu að safna svona mikilli upphæð. Íslenska marx-leníníska hreyfingin er í vaxandi sókn og setur sér því stærri verkefni en áður. Okkur verður að takast að safna 1 millj. fyrir 1.maí. Sú upphæð tryggir starf prentsmiðjunnar og Verkalýðsblaðsins og sú upphæð er stór áfangi í að auka blaðsíðufjölda Verkalýðsblaðsins og útgáfutíðni.

Áskriftarsafnanir Verkalýðsblaðsins hafa einnig gengið vel og hefur markmiðið jafnan verið ríflega uppfyllt á tilsettum tíma. Áskrifendur eru undirstaða reglulegrar útgáfu. Því fleiri sem þeir eru þeim mun styrkari er efnahagslegur grundvöllur Verkalýðsblaðsins. Til þess að fjölga blaðsíðutali og auka útgáfutíðni er nauðsynlegt að fjölga áskrifendum. EIK(m-l) veit að marx-lenínisminn og kenningar Mao Tsetungs eiga sér marga vini, sem Verkalýðsblaðið hefur enn ekki náð til. Allir félagar og stuðningsmenn samtakanna þurfa að leggjast á eitt um að afla Verkalýðsblaðinu áskrifenda og tengsla við sem flesta vini marx-lenínism- →

**gerum verkalýðsfélögin að baráttutækjum**

## Verslunarmannafélag Reykjavíkur:

# BITLAUST BARÁTTUTÆKI - BURT MED GUÐMUND H.!

Verslunarmannafélag Reykjavíkur er eitt stærsta verkalýðsfélag landsins. Það hefur um skeið verið eitt helsta virki Sjálfstæðisflokksins í verkalýðshreyfingunni. Forystumenn þess á borð við Guðmund H. Garðarson (þingmann og áróðursmeistara Sölumiðstöðvar hraðfrystihúsanna) og Magnús L. Sveinsson hafa veitt stéttasamvinnumönnum "verkalýðs" flokkanna dyggan stuðning í reynd. Undir forystu þessara aðskotapeyja í verkalýðshreyfingunni hefur baráttu VR miðað svo skammt að VR - taxtar eru lægstir og lélegastir.

Nú hefur borist verslunarfólki til eyrna ósk VR-forystunar um endurskoðun samninga VR og atvinnurekenda. Er hér um að ræða skyndilegan "baráttuvilja" hjá Guðmundi og có eða hvað? Gáum að - kosningar eru í nánd. Guðmundur H. Garðarson er hræddur um að missa þingsætið. Þá er að setja upp "verkalýðsgrímuna" og veiða atkvæði VR-félaga. Þetta er raunverulega ástæðan fyrir endurskoðun kjarasamninga VR nú.

Trúnaðarmenn VR og félagsmenn verða að opna augun fyrir falsspili Guðmundar og có!

Það er full ástæða til þess að ná margfallt betri kjarasamningum, en ekki með því að taka þátt í að tæla fólk til fylgis við ónýtt þingsalabrölt og metorðastrit félagsforystunnar.

Félagar í VR!

Til þess að snúa á bragð Guðmundar og có verður að krefja forystuna um rök fyrir því hvers vegna hún vill endurskoðun nú og lýsa um leið vantrausti á hana, bæði í ljósi langrar reynslu og afturhaldsbröltsins nú.

Verkalýðsfréttaritari í VR.

## Kirkjusandur:

# Undansláttur Þórunnar og Guðmundar J.

Samkvæmt samningum verkalýðsfélaganna er skylda að vinna kaffitímann í eftirvinnu og hann þá greiddur tvöfalt.

Hvernig má það vera að í samningum sé ákvæði um að kaffitími skuli vera kl. 17-17.15 "en skuli þó jafnan unninn?" Hvers konar kaffitími er þetta eiginlega, það er bókstaflega bannað að nota hann. Og þó? VBL. fékk þær upplýsingar hjá verkalýðsfélögunum að ef meirihluti á vinnustað samþykkti að taka hann "þá væri það auðvitað hægt". Þetta eru nú alveg dæmigerð vinnubrögð stéttarsamvinnunnar í verkalýðsforystunni undanfarin ár. Með lúmsku bragði átti að næla í 15 mín. aukagreiðslu fyrir vinnutímann. Svona hafa samningar verið, 100 kall hér, 100 kall þar, og fólkið getur ekki hent reiður á öllum "snjöllu brögðunum" sem verkalýðsforystan hrósar sér af. En verkafólk vill engar vífillengjur. Kjarasamningar eiga að vera einfaldir og tryggja viðunandi kjör án þess að verkafólk þurfi að selja matar- og kaffitíma sína.

Í frystihúsinu á Kirkjusandi kom upp mál varðandi kaffitímann í eftirvinnu. VBL. hafði tal af verkakonu á staðnum sem sagði að gengið hefði verið með undirskriftalista á staðnum og fólk skrifað sig með og á móti. Fleiri höfðu verið með því að kaffitíminn skyldi tekinn. Henni þótti athyglisvert að trúnaðarkonur Framsóknar vildu ekkert skipta sér af málinu sögðu að "þetta kæmi félaginu ekki við". Skrítið stéttarfélag það!

Síðan gerðist það að Guðmundur J. og Þórunn Valdimarsdóttir koma á staðinn og segja listann löglegan og ekki þyrfti vitnanna við. Eftir það tala þau við framkvæmdastjóra fyrirtækisins og segja eftir það samtal að atkvæðagreiðsla skuli fara fram vegna þess að í samningnum standi að kaffitími skuli unninn. Þar með fór sú atkvæðagreiðsla fram án þess að tilkynna fyrirfram, og alls ekki allir viðstakkir, og fór á þann veg að samþykkt var að kaffitíminn skyldi unninn. Árangursrík ferð það í þágu atvinnurekenda á Kirkjusandi.

Verkafólk hefur alltaf orðið að berjast fyrir sínu lifibrauði.

Atvinnurekendur og auðvald byggja veldi sitt og auð á vinnu verkafólksins og eðli þess er að reyna ævinlega að fá sem mest út úr vinnu verkafólksins fyrir sem minnst. En jafnframt gera auðherrarnir sér ljóst að viðhalda þarf vinnuaflinu og kaup því miðað við lágmarksþarfir fólksins. Einnig láta þeir detta mola hér og hvar í þeim tilgangi að slá ryki í augu fólks og með því breiða yfir kúgunina, ásamt því og linnulausum áróðri um vanda atvinnuveganna tekst þeim að halda kjörum verkafólks niðri. Allt sem atvinnurekendur gera er til að auka afköst og þar með gróða þeirra.

Innan raða verkafólks finnast menn sem telja það sitt ævihlutverk að aðstoða auðvaldið við arðrán þess og kúgun á verkalýðsstéttinni. Það fólk köllum við stéttasamvinnumenn. Þeir eru stéttasamvinnumenn sem t.d. í samningum standa fyrir að semja um smánarkjör til handa sínum félagsmönnum og hvetja ekki heldur letja baráttu verkafólks fyrir bættum kjörum sínum. Stéttasamvinnumennirnir eru bestu bandamenn auðvaldsins. Stéttasamvinnustefnan er hættulegasti óvinur verkalýðshreyfingarinnar og höfuðverkefni framsækins verkafólks ætti að vera að sjá í gegnum og berjast gegn stéttasamvinnunni hvar sem hún birtist.

EIK(m-l) hvetur verkafólk til að rísa upp og spyrna fótum við afskiptum atvinnurekenda af þeirra réttindamálum, og sjá við letjandi og svikulu stéttasamvinnustefnunni sem forystumenn Framsóknar og Dagsbrúnar stunda.

### Heimkeyrsla í vinnutíma.

Samkvæmt samningum ber frystihúsinu á Kirkjusandi að sjá um heimkeyrslu fyrir fólkið í vinnutíma þess. Eins og starfsmenn á Kirkjusandi vita, hefur fyrirtækið algerlega hunsað þetta ákvæði, það er sem sagt ekki lagt af stað heim með fólkið fyrr en vinnutíma er lokið. Slíkt samningsbrot á verkafólk ekki að líða en skilyrðislaust að taka sinn rétt í þessu máli og öðrum. Verkafólk á Kirkjusandi standið saman í baráttunni fyrir rétti ykkar. Réttur ykkar er heimkeyrsla í vinnutíma.

## Erlendur verkamaður á Íslandi

# GRÓFT RÉTTINDABROT ATVINNUREKENDA

Erlendir verkamenn á Íslandi eru fáir, sé miðað við nágrannalöndin, en undanfarin ár hefur verið talsvert um það að atvinnurekendur réðu sér útlenda verkamenn í vinnu, langoftast í fiskvinnu eða í skipsrúm. Oft hafa heyrst sögur um að atvinnurekendur hafi notað sér erfiða aðstöðu þessa fólks og gengið miskunnarlaust á rétt þess, en alltof sjaldan eru þau mál gerð opinber. Verkalýðsblaðið greindi frá einu slíku dæmi í síðasta tbl., þar sem um var að ræða útlendan mann sem var á íslensku fiskiskipi og hafði útgerðarmaður þess af honum fjárhæðir, sem ekkert gengur né rekur að fá greiddar. Nú hefur fréttaritari Verkalýðsblaðsins hitt að máli annan erlendan verkamann sem hefur að segja ljóta sögu af viðskiptum sínum við íslenska atvinnurekendur. Þetta er stúlka frá Nýja Sjálandi, Gill Purdom að nafni, en í ágúst sl. var hún ráðin í vinnu af fulltrúa Sambandsins í Englandi og fór til Grundarfjarðar, ásamt fleiri nýsjálenskum stúlkum til vinnu í frystihúsinu þar. Gill sagði í viðtali við Verkalýðsblaðið, að engir samningar hafi verið gerðir, en þær hafi aðeins fengið upplýsingapésa í hendurnar. Kom fram að þær fengju greitt flugfarið til Íslands, en ekki var tekið fram að þær þyrftu að endurgreiða það ef þær af einhverjum orsökum hættu fyrr en talað hafði verið um. Hins vegar skildist þeim að þær væru sjálfar ábyrgar fyrir flugfarinu til Englands aftur, ef þær hættu fyrir 18.maí 1978. Gill sagði að Sambandsmaðurinn sem talaði við þær í Eng-

ans og kenninga Mao Tsetungs. Þeir sem styðja baráttu verkalýðs og vinnandi alþýðu gegn borgarastéttinni og allri heimsvaldastefnu eru vinir marx-lenínismans og kenninga Mao Tsetungs.

Verkalýðsblaðið hefur sett sér það markmið að safna 200 nýjum áskrifendum fyrir 1.maí. Það ætti að takast þegar félagar og stuðningsmenn leggjast á eitt.

Látum borgarablöðin sjá að Verkalýðsblaðið er að vaxa og verða hárbeitt stéttabaráttuvopn í höndum verkalýðs og vinnandi alþýðu.

landi hefði verið grófur kynþáttahatari. Hann sagði við þær að ef þær vissu um einhverja þeldökka vini sína, eða annað þeldökkt fólk sem hyggði á Íslandsferð, þá skyldu þær reyna að koma í veg fyrir það. Á Íslandi væri mjög kalt og svertingjar þyldu ekki kulda!

### Heim af fjölskylduástæðum.

Fyrir nokkrum vikum fékk Gill Purdom skeyti frá Nýja Sjálandi þess efnis að móðir hennar lægi þungt haldin af veikindum og gæti því ekki annast 3ja ára gamlan son hennar, sem var hjá ömmu sinni. Var hún beðin að koma strax heim til Nýja Sjálands. Gill sagði yfirmönnum frystihússins á Grundarfirði frá þessu viku áður en hún ætlaði að fara og bað þá að hraða uppgjöri við sig. Hún átti inni um 70 þús. krónur og þurfti alla þá peninga og meira til fyrir ferðinni. Yfirmennirnir neituðu að greiða henni og loks eftir fjögurra daga þref var hún beinlínis neydd til að gefa þeim eftir alla summuna, á þeirri forsendu að þetta rynni upp í greiðslu flugfarsins frá Englandi sl. sumar! Við svo búið fór Gill Purdom frá Grundarfirði og í Reykjavík reyndi hún að hafa samband við talsmenn Sambandsins, sem höfðu milligöngu um ráðningu hennar. Hún mælti sér mót við einn, en þegar til átti að taka kom hann ekki á fundinn. Var hún síðan aðstoðuð til að komast heim á leið, en hér í Reykjavík leitaði hún á náðir Hjálpræðishersins um húsaskjól.

Þanni hljóðar sagan um Gill Purdom í stórum dráttum, en af henni og frásögninni í síðasta tbl., má sjá, að atvinnurekendur ganga hiklaust á rétt erlends verkafólks á Íslandi sé þess nokkur kostur. Ef lesendur vita um fleiri dæmi, þá látið ritstjórn vita.

Samstaða erlendir og íslenskir verkamenn!

Fréttaritari.

# JÓLAGJÖF GEIRS

Flestir þekkja þá staðreynd að dagvinnukaup verkafólks nær aðeins um helmingi framfærslukostnaðar fjögurra manna fjölskyldu.

Af þessu m.a. stafar vinnuþrælkunin sem viðgengst. Í síðustu ASÍ-samningum var samið um allt of litla kauphækkun, sem jók kaupmátt launa aðeins skamma stund þar eð fullar verðlagsbætur voru gefnar eftir. Enda hefur farið svo að afkoma vinnandi fólks er óbreytt frá því sem var í vor og sumpart verri, hvað svo sem prósentulýgi ASÍ, Þjóðhagsstofnunar og "Vinnuveitenda - sambandsins" líður.

Fyrir allt þetta hrósaði forysta ASÍ og ýmsir forystumenn Verkamannasambandsins sér á nýafstöðnu þingi þess.

### Kaupránið

Nú hefur auðstéttin og ríkisvald hennar auglýst að kjarasamningarnir við ASÍ, BSRB og BHM hafi valdið og muni valda samtals 45% verðbólgu. Sú tala er pöntuð úr "Þjóðhagsstofnun". En það er auðstéttin sem hefur bæði leyfi og völd til þess að velta öllum sínum útgjaldahækkunum út í verðlagið svo hún tapi sem minnstu en alþýðan skili aftur áunnu fé. En í borgarapressunni er svo reynt að kenna bændum, sem búa margir við lægri meðaltalslaun en verkafólk, um verðhækkanirnar margar!

Það er vísvituð stefna atvinnurekenda sem veldur verðbólgunni að stórum hluta.

### Fjárlögin

Með 45% töluna að vopni blæs ríkisstjórnin til orustu í skjóli nýrra fjárlaga.

Sagt er að minnka eigi verðbólguna og mæta auknum útgjöldum ríkissjóðs með "aðhaldi" og þyngri álögum á "alþjóð".

Reynslan sýnir þó að "alþjóðin" er alþýðan - auðherrarnir og ríkisbubbarnir sleppa betur vegna smæðar stéttarinnar og stefnu ríkisvaldsins.

Auk hertrar skattheimtu er boðaður samdráttur í félagsþjónustu. Ýmsar fjárveitingar til þurfandi sveitarfélaga, t.d. eins og Stokkseyrar eftir náttúruhamfarirnar skulu skornar niður.

### Jólagjöfin

Fyrir jólin boðaði ríkisstjórnin enn harðari álögur. T.d. 17 kr bensínverðshækkun, 1500 kr. hækkun á flugvallargjaldi, hækkun vörugjalds og sjúkratryggingagjalds ofl.

Með þessu er ljóst að auðstéttin hefur ekki einasta varist útgjaldaaukningu með því að hækka verðlag, heldur mun hún græða fé í þokkabót með því að auka útgjöld alþýðunnar. Fjárlögin eru auðvirðileg fjárkúgunarlög.

### Hvað er til ráða?

Mikilvægt er að fólk geri sér grein fyrir því að fátt myndi breytast þótt aðrir flokkar sætu í ríkisstjórn, sbr. afnám vísitölubóta í tíð "vinstri" stjórnar. Ríkisvaldið í núverandi mynd getur aðeins þjónað yfirstéttinni. En sé meginþungi virkrar fjöldabaráttu lagður utanþings og sé unnið markvisst að rústun auðvaldskerfisins þá er unnt að hrinda fleiri og fleiri atlögum arðræningjanna. Það er langur vegur til slíks ástands. Fyrsta skrefið felst í því að verka - og alþýðufólk gerir sér grein fyrir fánýti þingflokkanna og nauðsyn eigin baráttu.




lönd vilja sjálfstæði
þjóðir vilja frelsi
alþýðan vill byltingu

## Morgunblaðið lýgur

Það er ekki í fyrsta sinn að sagt er að Morgunblaðið ljúgi um ástandið í löndum þar sem alþýðan ræður ríkjum. Í flennigreinum og með miklum tilburðum hefur Morgunblaðið slegið því fram að Kampuchea sé "allsherjar þrælabúðir, þar sem fólkið stráfellur". Í lygaherferðinni gegn Kampucheu hefur Morgunblaðið fengið ágætis stuðning frá öðrum fjölmiðlum borgara og afturhalds, svo sem ríkisfjölmiðlum og Þjóðviljanum. Heimildir sem þessi lágkúrulega blaðamennska styðst við eru frásagnir flóttamanna frá Kampucheu og CIA-fréttir. Flóttamennirnir eru sá hópur manna sem lifði á bandaríkjadollurum á meðan fasistastjórn Lon Nol réði í Kampucheu. Auðvitað flýði þetta leiguþý bandarísku heimsvaldastefnunnar þegar alþýðan tók völdin.

Ein af sögunum um "ógnir rauðu Kmeranna" er að "fólkið var neytt til að yfirgefa heimili sín í borgunum og setjast að í vinnubúðum í sveitunum þar sem ekkert var annað að gera en þræla fyrir kommúnistastjórnina".

# Kampuchea er frjáls

Elín Pálmadóttir blaðamaður gerir sér lítið fyrir er hún bregður sér alla leið til Thailands til að fá efni í níðskrif um alþýðuna í Kampucheu. Það sem hún fékk að heyra en eðlilega ekki sjá, hefur aldrei gerst. Sögurnar um ógnaröldina í Kampucheu eru uppskáldaðar af Lon Nol-sinnum, sem nú hírast í útlegð og sem alla tíð hafa lifað á dollarasendingum frá Bandaríkjunum. Sendiherra Svía í Thailandi heimsótti nýlega Kampucheu og ferðaðist um landið. Í viðtali við skandinavíska fjölmiðla segir sendiherrann, sem heitir Jean-Christopher Oberg, að hann hafi hvergi í öllu landinu séð hernaðarlegt eftirlit með íbúum þess. - Ég hef líka rætt við flóttamenn og það er rétt að það er mikil samsvörun í því sem þeir segja, en við vitum líka að flóttamenn snúa málunum alltaf í ákveðna átt og það er ekkert einkennandi fyrir Kampucheu.

-Ég skal segja ykkur að fólkið í Kampucheu í dag er í hæsta máta vitandi um það hvað skrifað er um Kampucheu í fjölmiðlunum í heiminum. En það metur annað meir og það skiptir sér ekki af því hvað útlandið skrifar eða meinar það vinnur að því verki sem það hefur ákveðið að ljúka, en það er að búa til algerlega nýtt samfélag eftir eigin aðferðum og því næst má umheimurinn halda það sem hann vill.

- Við sáum alls fjórar byssur og fjóra hermenn og var einn þeirra ung stúlka. Það var allt sem við urðum varir við af hermönnum í Kampucheu.

- Á leið þeirri sem við ferðuðumst um sáum við fólk sem vann á ökrunum og við urðum þess hvergi varir að fólk þetta hafi verið sett þangað til vinnu með hernaðarlegri ógnun.

- Þarna er verið að byggja upp algerlega nýtt samfélag og við höfum aldrei séð neitt svipað því. Það er ennþá þannig að peningar eru ekki til í landinu. Það er sem sagt ekki hægt að kaupa og selja vörur á venjulegan hátt. Borgirnar eru til en þær eru ennþá tómar af fólki. Allir eru úti á ökrunum við vinnu. Þegar við spurðum hina kampucheönsku vini okkar hvers vegna þetta væri þannig, já þá



sögðu þeir að þeir hefðu ekki möguleika til að framfleyta fólki í svona stórum bæjum. Allt var sundursprengt árið 1975 og í stað þess að flytja inn dýrmætar matvörur og flytja þær til bæjanna þá var hin leiðin valin að láta fólkið fara út á landsbyggðina og gefa því tækifæri á að framfleyta sér sjálfu, sagði Oberg, sendiherra Svía í Thailandi.

## Fulltrúi PLO myrtur

Hinn 5. janúar sl. bárust þau tíðindi, að Said Hammam fulltrúi frelsishreyfingar Palestínuaraba PLO í Bretlandi hafi verið myrtur á skrifstofu PLO í London. Lögreglan hóf strax leit að morðingjanum, en hún telur hann vera araba. Hann hefur enn ekki fundist.

Þetta er ekki í fyrsta skipti sem opinber talsmaður PLO er myrtur, þetta voru sérlega tíðir atburðir á árunum 1972-1973. Orsakir flestra þessara atburða má rekja til hryðjuverka síonista gegn PLO. Það er mikil áhætta sem opinberir fulltrúar PLO taka á sig. Þeir verða að læra að lifa í stöðugum ótta um líf sitt og fjölskyldu sinnar. Við útför Hammams í Beirút sagði Yasser Arafat að nú hefði Palestínska byltingin misst enn einn baráttumann sinn. Verkalýðsblaðið harmar þennan atburð.



Lygar um Lillehammermorðið afhjúpaðar.

Morgunblaðið hefur ekki ávallt talist til þeirra dagblaða sem fara með áreiðanlegan fréttaflutning. Það sannaðist enn einu sinni í sunnudagsblaðinu 8.janúar. Þar heldur blaðið því fram að Ahmed Bouchiki (Myndin) (Lillehammermaðurinn), sem ísraelskir leyniþjónustumenn myrtu í Lillehammer í Noregi í júlí 1973, hafi verið njósnari PLO. Með þessu reynir Morgunblaðið að réttlæta starfsemi morðsveita Ísraels á erlendri grund. Heimildirnar fyrir þessu eiga að vera komnar frá Mohammed Wahbi nokkrum, sem Morgunblaðið segir vera "forstöðumann PLO í Evrópu" eftirmann Said Mammami, sem var myrtur í London fyrir skömmu. Þetta hefur blaðið eftir norska blaðinu Verdens gang.

Yfirmaður skrifstofu PLO í Beirút hefur ómerkt þessa: "afhjúpun" og upplýst að Bouchiki sem var frá Marokkó, hafi aldrei tilheyrt PLO. Þess utan er Wahbi alls ekki PLO maður, heldur aðstoðarframkvæmdastjóri Arababandalagsins í London. Eftirmaður Hammam þar heitir Nabil Ramlawi.

Þau eru mörg hálmstrá lyginnar sem afturhaldsfjölmiðlar grípa í viðleitni sinni til að berjast gegn framsæknum hreyfingum í heiminum.

# Landsfundur AB: Fram til kosningabaráttu

Í síðasta tbl. VERKALÝÐSBLAÐSINS (nr.15) birtist fyrsta af fjórum greinum í flokki um landsfund Alþýðubandalagsins. Fjallaði hún um setningarræðu Ragnars Arnalds. Var þar sýnt fram á hvernig hún endurspeglaði þá mýri falsmarxisma og kratisma sem flokkurinn stendur á og gerir hann að borgaralegum flokki.

Í þessu blaði verður gerð úttekt á stjórnmálaályktun fundarins. Næsta grein fjallar um hermálið og sú síðasta um innviði flokksins, kosningar og fleira.

Þessi ofangreinda upphrópun er tekin úr leiðara Þjóðviljans 22.nóv. sl. Hún sýnir eins og heildarstefna stjórnmálaályktunarinnar, kjarnann í starfi Alþýðubandalagsins (AB).

Í upphafi ályktunarinnar er reynt að sanna hvernig afkoma alþýðu er algjörlega háð ríkisstjórnum sem koma og fara. Innri meinsemdir auðvaldsskipulagsins, verðbólgan, kreppur, kauprán og byggðaeyðing eru kenndar Geir Hallgrímssyni. Galdrameðalið gegn öllu er ný "vinstri" stjórn eða helst AB-stjórn. Þannig er kosningabaráttan gerð að þungamiðju starfs losaralega uppbyggðs flokks, sem kennir félögum sínum hvorki marx-lenínisma, fjöldastarf né lýðræðisstörf. AB er þannig eins og hinir flokkarnir.

### Hvað segir reynslan?

AB-forystan afneitar einum hornsteini marxismans, sem segir ríkisvald í auðvaldsþjóðfélagi ávallt vera tæki undirokunar og arðráns. Í raun afneitar hún að auðstéttin sé ófær um að smíða þjóðfélag samvirkni og sameignar og að auðvaldið hvíli á arðráni. Í ályktuninni stendur að "efnahagsstefna ríkisstjórnarinnar sé aðalorsök verðbólgu". Skv. þessu þarf alls ekki að afnema auðvaldið aðeins fella ríkisstjórnina. En reynslan af stjórnarsetum AB-manna og þingsalagaspri þeirra er þessi m.a.: Sósíalistaflokkurinn vann með Sjálfstæðisflokki til að "bjarga efnahag þjóðarinnar" eftir stríð og útvega verkalýðnum kaupbætur án baráttu! Alþýðubandalag (sem kosningafylking) átti þátt í afturhaldsstjórn 1956-1958.

Sálug "vinstri" stjórn herti skattheimtu, makkaði við Union Carbide, treysti hersetuna, skerti gildandi kjarasamninga með afnámi vísitölubóta o.s.frv. En AB-forystan reynir að fela ríkiskapítalisma flokksins með ruglingslegum prósentutölum og "staðreyndum" um efnahagsmál á tímum "vinstri" stjórnarinnar. Í ályktuninni segir frá uppbyggingu atvinnuvega, 30% kaupmáttaraukningu á þessum tíma o.fl.

En mergurinn málsins er sá að aðrar stjórnir SEM AUÐVALDSSTJÓRNIR hefðu gert hið sama - fjárfest - og kaupmáttaraukning hefði orðið eins og stundum áður í tíð margra ríkisstjórna. Síðan hallar undan fæti á ný vegna óleysanlegra innri mótsagna auðvaldsskipulagsins uns bólar á kreppunni. Þetta sást greinilega sumarið sem "vinstri" stjórnin féll. Reynslan segir því stefnu AB tálsýn og fals.

### Sundrungarafl.

"Fyllstu samráð við verkalýðshreyfinguna".- segir í ályktun AB. Almennt verkafólk þekkir flest "forystumenn"hreyfingarinnar ekki að góðu. Þegar þar við bætist að AB er sá flokkur sem einna minnst gerir til að skipuleggja baráttu meðal fjöldans, sést hve mikil hræsni yfirlýsing sem þessi er. Hún á að veiða atkvæði verkalýðsins. Í ályktuninni segir loks frá níu atriðum sem AB vill framkvæma í efnahags- og atvinnumálum. Í fiskveiðum á að viðhalda innlendri rányrkju sbr. skuttogarakaup Lúðvíks, efla iðnaðinn (fyrir hvern?), efla samvinnuhreyfinguna (auðhringinn SÍS), tryggja "þjóðarhagsmuni"(!) í fjárfestingum, efla hagræðingu (fjölga uppsögnum)..o.s.frv. Til eru tillögur sem eiga stuðning kommúnista, eins og um tekjuskattsgreiðslur fyrirtækja en þær eru sárafáar.

Boðuð"vinstri" þróun táknar því skv. ályktuninni ekkert annað en miðstýrðara og öflugara auðvald. Verkafólk, önnur alþýða og baráttufólk verður að snúa baki við AB-forystunni og flokknum sem slíkum.

# Eritrea: SOVÉTSINNAR KASTA NAPALM-SPRENGJUM

Sovétríkin beita sömu hernaðarlegu glæpamennskunni í Eritreu og Bandaríkin beittu í Indókína. Talsmaður þjóðfrelsishreyfinganna ELF-PLF í Erítreu segir að sovéskar MIG þotur hafi varpað NAPALM-sprengjum á sex þorp í Erítreu og drepið 7000 manns. Þotum þessum er stjórnað af kúbönskum hermönnum. Talsmaðurinn fór fram á það að Sameinuðu Þjóðirnar beittu sér í málinu til að stöðva hryðjuverk sósíalheimsvaldasinnanna.

Mengistu, forsprakki fasistastjórnarinnar í Eþíópíu er fylgisspakur þjónn sovésku heimsvaldastefnunnar, sem nú berst opið gegn þjóðfrelsi Erítreu. Brésneff kallar þjóðfrelsisstríð Erítrea "gagnbyltingarsinnað stríð", sem beinist gegn "sósíalísku uppbyggingunni í Eþíopíu" og hann hrósar kúgunarstefnu herforingjanna í Addis Ababa.

Síðustu fregnir frá Eþíopíu segja að algjör upplausn sé í landinu og gangi liðsmenn Mengisto um eins og stigamenn og skjóti fólk á götum úti. Þetta styður Brésneff og hans líkir.

Sovétríkin hafa enn sýnt að þau eru ekki bara falskur "vinur" alþýðunnar í 3.heiminum, heldur grimmur óvinur. Þau eru heimsvaldasinnað risaveldi, sem ógnar friði og frelsi. Fordæmum stríðsrekstur Sovétríkjanna í Afríku.



# 8.mars- baráttudagur kvenna

8.mars er alþjóðlegur barátturdagur verkakvenna. 8.mars hefur áunnið sér baráttuhefðir í langri sögu, en hann var ákveðinn alþjóðlegur baráttudagur fyrir verkakonur á alþjóðlegri ráðstefnu kvensósíalista í Kaupmannahöfn 1910. Þessi dagur var valinn til að minnast fyrsta verkfalls verkakvenna sem sagan geymir, en það var árið 1848 í Bandaríkjunum. Í byltingunni í Rússlandi 1917 skipaði 8.mars einnig sérstakan sess og um það segir svo í Sögu Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna (bolsévikanna):

"Þann 18. febrúar fóru verkamenn í Putilovverksmiðjunum í Petrograd í verkfall. 22.febrúar (8.mars) gengu verkakonur út á strætin samkvæmt áskorun bolsévikanna og mótmæltu hungrinu, stríðinu og keisarastjórninni. Aðgerð verkakvennanna naut stuðnings verkalýðsins með allsherjarverkfalli í Petrograd. Hið pólitíska verkfall fór að þróast í almennar pólitískar mótmælaaðgerðir gegn keisarakerfinu."

EIK(m-l) ályktuðu á stofnþingi sínu, að hvetja ísl. verkakonur til að stofna til breiðrar baráttufylkingar um þau baráttumál kvenna, sem efst væru á baugi á hverjum tíma. Sagði í ályktuninni að baráttuna verði að heyja fyrst og fremst á grundvelli stöðu verkakvenna og annarra láglaunakvenna, með samstöðu annars verkafólks sem á í stéttabaráttu.

Þessi orð eru enn í fullu gildi og enn brýnna en áður að leggja fram starf í því skyni að hefja uppbyggingu sterkrar baráttuhreyfingar verkakvenna. EIK(m-l) hafa nú ákveðið að hefja þegar í stað starf sem miðast að því að gera 8.mars að myndarlegum baráttudegi íslenskra verkakvenna. Samtökin hvetja baráttusinna til að koma strax með í virkt starf að því máli.

Framh. af forsíðu

# LANDSMIÐJAN

eign í auðvaldsþjóðfélagi getur aldrei talist neinn áfangi á leið til sósíalismans, eins og td. bæði Sjálfstæðisflokkurinn og Alþýðubandalagið virðast vera sammála um.

## Einokunin

Allar greinar íslensks efnahagslífs þróast í átt til sífellt meiri einokunar. Ljós dæmi eru: Flugleiðir einoka nær allar flugsamgöngur og leggja undir sig æ meira af hótelrekstri, Eimskip er með stóran hluta af skipaflutningum SÍS hefur svo til einokun á vinnslu og sölu landbúnaðarafurða o.s.frv. Þessi þróun á sér einnig stað í járniðnaðinum. Nokkur fyrirtæki renna saman í eitt og/eða bjóða saman í verk. (HSH og Stjörnustál (HSH=Héðinn,Stálsmiðjan og Hamar )): Þessum stóru fyrirtækjum er akkur í að losna við samkeppni allra þeirra fyrirtækja, sem einhvers mega sín í þessari grein.

## Hagsmunir verkalýðs

Tugir manna, sem margir hver hverjir hafa unnið í Landssmiðjunni, árum eða áratugum saman eiga að missa vinnu sína. Auk þess sem miklu róti er komið á líf margs af þessu fólki og það verður fyrir ýmsum óþægindum, þá glatast áunnin réttindi innan Landssmiðjunnar og elstu mennirnir annað hvort hættu að vinna eða fengju vart vinnu annarstaðar. Ekki minnist "nefnd um minnkun ríkisafskipta" á hagsmuni verkafólks í fyrirtækjinu, enda kannski ekki von, því lítið er um alþýðufólk í nefndinni.

## Til baráttu

Verkafólk í Landssmiðjunni verður að berjast gegn þessarri aðför að hagsmunum þess og réttindum og getur þar fylgt fordæmi mjólkurbúðakvenna sem með samstöðu sinni börðust gegn atvinnumissi og lokun mjólkurbúða. Helstu verkefni, sem þyrfti að sinna, eru að skapa sem mesta samstöðu meðal starfsmanna og kynna málstað þeirra. Þá verður að tryggja að frumkvæði og starf, sé fyrst og fremst í höndum starfmanna sjálfra, en ekki sé treyst á að ASÍ eða ákv. þingflokkar vinni málið fyrir starfsmenn. Þeir verða að gera það sjálfir. Sem dæmi má nefna að bæði ASÍ og þingflokkarnir sviku baráttu mjólkurbúðakvenna og hvorir tveggja munu kasta hagsmunum Landssmiðjustarfsmanna fyrir róða, ef atvinnurekendur og ríkisvald þeirra heimta það.

## Afstaða Þjóðviljans

Rétt er að benda á afstöðu Þjóðviljans til þessa máls. Höfuðröksemd hans fyrir því að ekki eigi að leggja Landssmiðjuna niður, er að undanfarin ár hafi hún skilað hagnaði. Minna er lagt upp úr hagsmunum starfsmanna og atvinnumissi þeirra. Dæmi um það, hvað Þjóðviljinn er traust "málgagn Þjóðfrelsis, sósíalisma og verkalýðshreyfingar", fæst einnig frá baráttu mjólkurbúðakvenna, en framlag Þjóðviljviljans, eftir að konurnar höfðu hafið baráttuna og skipulagt mótmælagöngu, var umsögnin "of seint".

# „Mótframboð" í Dagsbrún

# Enginn valkostur

Senn fer að líða að stjórnarkjöri í Dagsbrún. Undanfarin ár hafa þeir kumpánar Eðvarð og Gvendur jaki verið sjálfkjörnir í stjórnina eins og allir Dagsbrúnarmenn vita. Nú ber hins vegar svo við að nokkrir menn ætla sér í mótframboð. Eru þar liðsmenn "KFÍ/ML"-klíkunnar og jábræður Guðmundar J. frá Verkamannaþinginu, fremstir í flokki. Sunnudaginn 8. janúar sl. héldu þeir fund um framboðið og höfðu stuttu áður dreift á nokkra vinnustaði drögum að stefnuskrá sinni. Innihélt hún upptalningu um félagsmál, lífeyrismál, húsnæðismál, kjaramál o.s.frv. Það vakti strax athygli þeirra sem þessa stefnuskrá sáu að ekki var minnst einu orði á nauðsyn baráttu gegn stéttasamvinnustefnunni, né heldur var talað um að gera þyrfti verkalýðsfélögin að baráttutækjum.

Á fundinum var ákveðið að fara í framboð og var Sigurður Jón Ólafsson (liðsmaður "KFÍ/ML" klíkunnar) settur í fyrsta sætið á listanum. Af sjö listamönnum eru a.m.k. fjórir sem tilheyra eða styðja hina fámennu klíku sem kallar sig "Kommúnistaflokk Íslands/marxlenínista". Augljóst er að "KFÍ/ML"-klíkan er að reyna að spreyta sig, en verra er að framboð sem þetta er skemmdarverk á því starfi sem þegar hefur verið unnið (raunar óskipulega) við að byggja upp andstöðulið til baráttu gegn stéttasamvinnustefnunni í Dagsbrún og ASÍ. Stefnugrundvöllur framboðslista "KFÍ/ML"-klíkunnar er aðeins rauðleitari spegilmynd Dagsbrúnarforystunnar. Undirbúningur hófst, að sögn Sig. Jóns Ólafssonar, í desember. Það á sem sagt að vinna vígið í sprettátaki - eða er yfir höfuð ráðgert að vinna vígið? Stefnugrundvöllur "KFÍ/ML" klíkunnar gerir ekki minnstu tilraun til þess að skilgreina þann óvin sem við er að etja í þessu framboði. Þeir sem styðja "KFÍ/ML" klíkuna í þessu brambolti ganga fyrst og fremst erinda stéttasamvinnustefnunnar.

Mikilvægasta verkefni innan verkalýðshreyfingarinnar er að gera verkalýðsfélögin að baráttutækjum. Því markmiði verður ekki náð fyrr en stéttarsamvinnustefnan hefur verið sigruð. Stéttasamvinnustefnan verður ekki sigruð með illa undirbúnu framboði til stjórnar Dagsbrúnar og enn síður þegar sá grundvöllur sem boðið er fram á er aðeins samkeppnisgrundvöllur við Dagsbrúnarforystuna. Við bjóðum betur! (en engar breytingar!) segir"KFÍ/ML" klíkan með framboði sínu.

Það er nauðsynlegt að mynda andstöðulið í verkalýðsfélögunum, sem hafa baráttu gegn stéttasamvinnustefnunni að aðalverkefni. Til þess að sigra og ná forystu í Dagsbrún verður nauðsyn baráttunnar gegn stéttasamvinnustefnunni að vera meðvituð þorra Dagsbrúnarmanna og það skeður aðeins með þrotlausu starfi baráttusinna innan félaganna.

Dagsbrúnarmenn! Munurinn á framboði gömlu stéttasamvinnufulltrúanna í forystunni og "KFÍ/ML" klíkunnar er enginn nema sá að annar segist bjóða betur, en hefur þó ekkert á bak við sig. Enn er enginn valkostur fyrir framsækna og baráttusinna að velja um. Skilum auðu í þessum kosningum í Dagsbrún og sýnum þátttöku á þann hátt.

Framh.af forsíðu

# SIGLÓ

fjárfrek og áhættusöm fyrirtæki og reka þau. Eða þá ríkisfé hefur verið nýtt til að bjarga gjaldþrota fyrirtækjum frá upplausn (t.d. Álafossi og Slippstöðinni) oft til að halda uppi atvinnu í byggð utan Reykjavíkur.

Sem stóratvinnurekandi og einnig vegna ofangreinds hlutverks er ríkisvaldið oft áreiðanlegri atvinnurekandi en einkaaðilar. Fyrir minni kaupstaði eða sveitarfélög með tiltölulega fáar atvinnustöðvar getur slíkt verið verkafólki hagstæðara en ella. En slíku má ekki blanda saman við sósíalískt efnahagslíf. Ríkisrekstur í sósíalismanum er andstæður kapitalisma, - án arðráns - vegna þess að verkalýðurinn ræður ríkisvaldinu í einu og öllu.

## Sigló-síld

Á Siglufirði eru ríkisrekin fyrirtæki í miklum meirihluta miðað við fjölda starfmanna. Eftir langt niðurlægingartímabil, sem stafaði af brotthlaupi einkaaðila í atvinnurekstri öðru fremur er nú mikil atvinna á Siglufirði. Sigló-síld hefur séð Siglfirðingum fyrir allt að 100 stöðum þegar best lætur - þar af hafa konur verið í meirihluta.

Nú eru uppi hugmyndir meðal ríkisforkólfa að selja verksmiðjuna einhverjum einkaaðilum. Sú hugmynd hefur a.m.k. hlotið samþykki framkvæmdastjóra Sigló. Auðvitað er siglfirskt verkafólk ekki spurt.

Afleiðingar sölu verksmiðjunnar gætu orðið þær að einkaaðili flytti verksmiðjuna til "hagkvæmari" staðar. Ríkisvaldið hefur afturámóti lagt útí aukakostnað vegna t.d. hráefnisflutninga o.fl. Mikið atvinnuleysi hlytist af brottflutningi eða minnkun verksmiðjunnar. Siglfirskt verkafólk má ekki sitja auðum höndum. Aðalatriðið er að krefjast og tryggja fulla atvinnu á Siglufirði, sama hver rekur hvaða arðránsfyrirtæki. Úr því reynslan sýnir Siglfirðingum að ríkisrekin Sigló-síld er traustari í atvinnutilliti en einkaverksmiðja þá ber að berjast fyrir því að verksmiðjan verði áfram í ríkiseign.

Fyrsta skrefið gæti verið samþykkt verkalýðsfélagsins og stjórnmálasamtaka, annað skrefið undirskriftasöfnun gegn fyrirhuguðum áformum - og áfram.

Framh. af baksíðu

# Sjómenn

Það eru áhafnir toppskipanna sem hafa það nokkuð gott, en 70% hafa sæmileg laun. Skipin sem hafa mesta burðarþolið koma vel út. Í fyrra voru meðallaun háseta um 200.000 á mánuði. Þá bendum við á, að við erum bundnir við þetta allan sólarhringinn og hægt að kalla okkur til vinnu hvenær sem er. Auk þess erum við alltaf fjarri heimilunum við þessi störf.

Eitt finnst okkur skítt, að þegar við löndum sjálfir fiskinum, þá er ekki greitt aukalega fyrir það. Við ættum að gera eins og Færeyingar, þeir eru komnir í frí um leið og búið er að binda landfestar. Þetta mættum við hafa að fyrirmynd.

-Eitthvað að lokum?

-Fyrst að viðtalið kemur í þetta blað, þá viljum við benda á að undanfarið hafa verkalýðsfélögin verið að mótmæla leigunni á Norglobal. Verkalýðsfélögin mótmæltu ekki þegar danska skipið Ísafold fékk leyfi til að veiða loðnu við landið, vegna þess að þeir sáu fram á meiri vinnu í landi. Þarna þögðu þau, þrátt fyrir mótmæli samtaka sjómanna. Við getum ekki séð hvaða tilgangi það þjónar að mótmæla Norglobal, þegar haft er í huga að sá afli sem landað er í Norglobal er nær eingöngu umframafli og skerðir því ekki kjör verkamanna í landi að neinu leyti, hvorki í Vestmannaeyjum né annars staðar.

Verkalýðsfréttaritari á Akureyri.

Framh. af forsíðu

# Kristnes

gripu starfsstúlkurnar til síns beittasta vopns - hótunar um vinnustöðvun. Þá loks gáfust andstæðingarnir upp og gengu að réttlátum kröfum starfsstúlknanna - án þess að gripið væri til verkfallsvopnsins. Í viðtali við Verkalýðsblaðið kváðu starfsstúlkurnar sig hafa lært mikið af þessu og var sérstaklega bent á neikvæða afstöðu Jóns Helgasonar, forystumanns Einingar, í því sambandi. Einnig gagnrýndu starfstúlkurnar hjúkrunarfræðinga og sjúkraliða á Kristnesi fyrir að sýna baráttu þeirra ekki nægilegan stuðning. "Okkur furðar að sjúkraliðarnir skyldu ekki standa með okkur, því við höldum niðri launum þeirra með því að ganga í þeirra störf", sögðu starfsstúlkurnar við fréttamann blaðsins.

EIK(m-l) senda starfsstúlkum á Kristnesi baráttukveðjur í tilefni þessa sigurs og vona að hann verði aðeins upphafið að enn stærri og meiri sigrum!




Október forlagið hefur nýlega gefið út fræðslurit um Verkalýðsmál og heitir það Gerum Verkalýðshreyfinguna að Baráttuhreyfingu. Þar eru m.a. greinar um stéttgreiningu, saga verkalýðshreyfingarinnar, hlutverk stéttarfélaganna, skipuleggjum baráttuna og margt fleira. Þennan bækling ættu allir að eignast sem láta sig baráttumál verkalýðs skipta. Hann getur orið gott innlegg í umræðu um verkalýðsmál. Bæklingurinn fæst hjá Október og kostar 500 kr.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ EIK(m-l) OG OKTÓBER FORLAGIÐ

EIK(m-l) Akureyri: Hafnarstræti 79. Opið: þriðjudaga kl. 5-7 og föstudaga kl. 4-6.

EIK(m-l) Reykjavík: Óðinsgötu 30. Opið: miðvikudaga kl. 5-7, föstudaga kl.5-7 og laugardaga kl. 2-4. Sími 29212. Pósthólf 5186.

EIK(m-l) Kaupmannahöfn: Sigrún Ágústsdóttir, Öresundskóllegiet, J-102, Dalslandsgade 8, 2300 Köbenhavn S.

EIK(m-l) Osló: Steinunn Hjartardóttir, Schultsgate 7, Osló 3. Sími 694450, kl.5-8.30.

EIK(m-l) Uppsalir, Svíþjóð: Haraldur Arngrímsson, Flogstavägen 93 F, Uppsala.

.......

EIK(m-l) hefur gíróreikning nr. 12 200-9.

Á öllum þessum stöðum fæst einnig Verkalýðsblaðið og útgáfuefni Október-forlagsins og EIK(ml).

Framh.af baksíðu

# GAGN OG GAMAN

að fyrra atriðinu, og spyrjum: Er gagn og gaman þá ekki nauðsynlegt til að gefa út róttæka list? Svarið er nei. Undanfarin ár hefur ekki verið samin eða flutt róttækt tónlist hér á landi þannig að borgaraleg útgáfufyrirtæki gleypi ekki við henni, ef listræn gæði eru á annað borð sæmileg og einhver von til að platan seljist. Þær tvær plötur, sem Gagn og gaman hafa gefið út gæti hver stéttvís borgari verið stoltur af að hafa gefið út. Þó svo að eitthvað róttækt kæmi fram á næstunni er líklegt að einhverjir minniháttar borgarar væru fáanlegir til að grafa dálítið undan eigin stétt ef það samrýmdist stundarhagsmunum hans sjálfs.

Það kemur bráðum að því að borgarastéttin sér sér það mikið ógnað af tónlistarvopninu, að nauðsynlegt reynist fyrir kommúníska og framsækna hreyfingu að treysta á eigin útgáfu, ekki bara bóka og plakata, eins og nú er, heldur einnig hljómplata. Hvort Gagn og gaman nái nokkurn tíma að gegna því hlutverki ætla ég ekki að spá neinu um hér og nú, en hvorki lög félagsins né fyrstu verk þess gefa miklar vonir um að svo verði.

Hvað sem öllu gagni og gamni líður, er höfuðverkefnið til eflingar framsækinnar listar í dag einkum þetta: Að tengja listina marx-lenínismanum, fá listamennina á band alþýðunnar, innræta þeim framsæknar og kommúnískar hugmyndir og virkja þá í framsækna pólitíska baráttu og efla hagsmunabaráttu þeirra.

VERKALÝÐS-BLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 2000
1/2 árs áskrift: kr. 1000
Til útlanda: kr. 3500
Stuðningsáskrift: kr. 4000
ÓÐINSGÖTU 30
Pósthólf 5186, Reykjavík
SÍMI: 29212

Málgagn EIK(m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200 - 9



# „GAGN OG GAMAN" - FYRIR HVERN?

Það er að sjálfsögðu ekkert skilyrði, að listamenn verði að tengjast EIK(m-l) á einhvern hátt til að geta gert eitthvað til gagns fyrir alþýðuna. En menn verða að vera námfúsir og opnir fyrir hugmyndum kommúnista og alþýðufólks. Listamenn mega ekki ganga með grillur um að þeir geti markað framsækna stefnu upp á eigin spýtur sem einstaklingar eða smáhópar, án góðra tengsla við verkalýðsstéttina og kommúnískt forystulið hennar. Pólitískt ástand meðal íslenskra listamanna hefur verið mjög bágborið eftir að Kommúnistaflokkurinn gamli leið undir lok. Meðan hans naut við var gullöld framsækinna bókmennta, en henni lauk fljótlega eftir sigur endurskoðunarstefnunnar í forystu verkalýðsstéttarinnar.

Mér skilst, að Gagn og gaman hafi einkum verið stofnað í tvennum tilgangi:

1. Vinna að fjölmiðlun róttækrar listar. Þessu er slegið föstu í lögum félagsins, en þar er ekkert sagt um hvað felist í orðinu róttækur. Eftir tveimur fyrstu plötum fyrirtækisins að dæma virðist það geta þýtt næstum hvað sem er.

2. Greiða "róttækum listamönnum" betur en önnur borgaraleg fyrirtæki (þetta er þó ekki í lögunum). Það er ljóst að margir listamenn búa við sultarkjör og úr því þarf að bæta. En ef þetta er ráðið gegn því, er þá ekki ráðið til að bæta hin bágbornu kjör frystihúsakvenna að byggja nýtt frystihús, sem borgi betra kaup en öll hin? Hvort tveggja er jafn fáránlegt. Í báðum tilfellum gildir sama ráðið: Að skipuleggja fólk til baráttu, setja fram kröfur og fylgja þeim fast eftir. Þegar svo þar að kemur, að auðvaldið treystir sér ekki lengur til að uppfylla þær kröfur, sem alþýðan fylgir eftir af afli, þá er kominn tími til að rýðja hinu úrelta auðvaldsskipulagi úr vegi og byggja upp sósíalískt þjóðfélag. En áður en það mark næst, þurfa margir baráttusinnar að vinna mikið starf. En svo við víkjum aftur

Framhald bls. 5

# Loðnusjómenn: Óskipulögð barátta

Á fundi sem loðnusjómenn héldu á Akureyri, að lokinni sendiför þriggja skipstjóra og forystumanna sjómannasamtakanna og samtaka útgerðarmanna á fund Geirs, kom vel fram að í þessu máli sem og öðrum eiga yfirmenn á loðnuflotanum enga samleið með undirmönnum. Tillaga sendimannanna var aumleg og gekk út á það að breiða yfir undanslátt. Talsmenn undirmanna voru almennt harðir á því að halda verkfallinu til streitu, en menn út skipstjórahópnum voru talsmenn siglingar á miðin. Óskar Vigfússon, forseti Sjómannasambandsins, var í hlutverki stéttasamvinnupáfans á fundinum og var með úrtölur eins og þær, að "þó nokkuð hafi áunnist" og hægt væri að róa upp á loðin loforð forsætisráðherra. Greinilega skorti baráttu undirmanna alla skipulagningu, annars hefði fulltrúum útgerðarmanna og ríkisvaldsins ekki tekist að hnekkja þeirri samstöðu sem áður hafði náðst.



# VR: Bitlaust baráttutæki

Formlega séð eru verkalýðsfélögin baráttutæki verkafólks gegn atvinnurekendum og ríkisvaldi þeirra, en eins og verkafólk rekur sig á hvað eftir annað, og eins og Verkalýðsblaðið hefur sýnt fram á, eru mörg þeirra ekki baráttutæki verkalýðs, heldur þunglamaleg skrifræðisbákn í höndum forystuklíkunnar í verkalýðshreyfingunni, sem lætur samvinnu og makk við atvinnurekendur ganga fyrir samstöðu og baráttu verkalýðsins. Þetta á m.a. við um Verslunarmannafélag Reykjavíkur, sem Guðmundur H. Garðarsson og hans líkar ráða ríkjum í - ennþá! Sem baráttutæki er þetta félag máttlaust, en forysta þess gegnir hins vegar lykilhlutverki sem erindrekar auðstéttarinnar meðal verslunarfólks.

Þessu til sönnunnar má nefna margt, en hér skal aðeins rakin stutt en fróðleg frásögn konu einnar sem hafði samband við Verkalýðsblaðið. Hún hefur unnið í rúmt ár við afgreiðslu í kjörbúð einni í Reykjavík. Eftir smánarsamningana sl. sumar fór hana að gruna að verslunareigandinn greiddi henni ekki rétt kaup, samkvæmt töxtum Verslunarmannafélagsins og við nánari athugun reyndist það rétt. Auk hennar sjálfrar var sömu sögu að segja um 4 aðrar konur sem í búðinni vinna. Var greitt kaup konunnar í október sl. kr. 94.000, en átti að vera rúmlega 101.000 og er það víst nógu hlægilega lágt kaup samt! Konan talaði við fulltrúa Verslunarmannafélagsins, en hann vildi ekki gera neitt í málinu, taldi rétt að fara "varlega í sakirnar" fyrst! Sinnti félagið ekki ítrekaðri beiðni um aðstoð og fulltrúi þess hefur aldrei <u>fengist til þess að ræða aukatekið orð við verslunareigandann!</u>

Þegar verslunareigandinn varð var við að konan stóð í stappi út af kaupráninu, reyndi hann að brjóta hana á bak aftur, m.a. með því að láta hana ekki vinna neina eftirvinnu í desember, þegar mest eftirvinna er á árinu hjá verslunarmönnum. Gefur auga leið að láglaunahópur eins og verslunarmenn eru tilneyddir að vinna þá yfirvinnu sem býðst til að mæta hraðrýrnandi kaupmætti. Þetta m.a. átti sinn þátt í því að veikja samstöðu kvennanna í búðinni, og vildu þær, aðrar en viðmælandi Vbl. ekki fara út í hörku og ekki náðist samstaða um að kjósa trúnaðarmann á staðnum (enginn slíkur er til staðar, þrátt fyrir að Verslunarmannafélaginu beri <u>skylda</u> til þess að setja trúnaðarmann ef verkafólkið nær ekki samstöðu um hann).

Konunni tókst að sýna kaupmanninum fram á það, svart á hvítu, að hann hafi hýrudregið hana um tíma og fékk hún greitt aftur í tímann fyrir skömmu, en enn vantar upp á fullnaðaruppgjör. Hefur konan sagt upp vinnu og hætt, en reynir nú að heimta það sem útistandandi er. Hún sagði við Vbl. að henni gengi erfiðlega að fá atvinnu á ný, og m.a. vegna þess, vildi hún síður láta nafns síns getið hér í blaðinu.

Verkalýðsblaðið hvetur lesendur til að hafa samband við ritstjórn, ef þeir vita um hliðstæð dæmi. Mikilvægt er að segja frá þeim, þar sem öll reynsla verkafólks í daglegri baráttu kemur hreyfingunni að gagni.

# Talað við loðnusjómenn:

Verkalýðsblaðið hitti að máli sjómenn úr áhöfn Eldborgar úr Hafnarfirði á Akureyri á dögunum og voru þeir fyrst spurðir um það að hverjum kröfur þeirra beindust, en Eldborgin var í hópi loðnuskipanna sem sigldu inn til Akureyrar til að mótmæla allt of lágu verði fyrir loðnu.

-Kröfurnar beinast að ríkisvaldinu, við viljum leiðrétta grundvöll að verðlagningunni. Baráttan beinist einnig að bræðslueigendum, þannig að öruggt sé að það verði settir fram réttir reikningar verksmiðjanna, en það vitum við að þeir munu ekki gera.

<u>-Hvert er mat ykkar á verðlagningu loðnunnar, eins og hún hefur verið undanfarið?</u>

-Það er sanngjarnt að fiskurinn sé verðlagður eftir gæðum á hverjum tíma. Því er verðlagningin sanngjörn sem slík.

<u>-Talað er um að loðnusjómenn hafi rífandi tekjur nú þegar. Hvað segið þið um það?</u>

-Þetta er leiðinda orðrómur.

Framh. á bls.5

# Berjumst fyrir samningsrétti - fylkjum liði 1. maí!

Framh.af forsíðu

<u>VBL</u>: "Hvað varð síðan til þess að þið beittuð aftur þessu vopni?

"<u>Herdís og Laufey</u>: "Við erum aukafélagar í stéttarfélagi hjúkrunarfræðinga, en höfum þar einungis tillögurétt og málfrelsi. En venjan hefur verið sú að skólanefnd Hjúkrunarskólans hefur samið um ákveðið prósentuhlutfall <u>fyrir okkur</u> af kaupi því sem hjúkrunarfræðingafélagið hefur samið um hverju sinni. Skólanefndin er þannig skipuð að landlæknir er formaður, fulltrúi frá Menntamálaráðuneytinu, fulltrúi frá Landspítalanum (forstöðukona), fulltrúi lækna og hjúkrunarfélagið á einn fulltrúa. Þetta eru þeir sem hafa atkvæðisrétt. Síðan eiga þarna sæti án atkvæðisréttar, einn fulltrúi kennara, einn fulltrúi nemenda og skólastjóri. Engin frá skólanum hefur þarna neitt að segja.

<u>Kröfur okkar hunsaðar þar til við beittum vopnum okkar.</u>

"Nú, í maí lögðum við fram okkar kröfur, þ.e. við ætluðum að sætta okkur við að halda sömu prósentu og áður af launum hjúkrunarfræðings, en settum fram kröfur um hækkað yfirvinnukaup. og vildum fá inn í samninginn ýmis atriði sem áður höfðu verið túlkuð á ýmsa vegu. Einnig vildum við fá bætt nám.

Í dag erum við illa launaður vinnukraftur, en ríkisvaldið er háð okkur vegna þess hve rýr kjörin eru hjá þjónustuliði sjúkrahúsanna, þau því illa mönnuð og mikið vinnuálag.

Tæp 2 ár af 3 sem nám okkar tekur er vinna. Er við förum út á deildir á það að vera undir

deildarhjúkrunarkonunni komið hvort við hljótum tilsögn að einhverju marki, en þar sem vinnuálagið er svona mikið vinnst ekki tími til þess.



Herdís Alfredsdóttir

Á Borgarsjúkrahúsinu er það látið heita svo að við nemar séum viðbótarstarfskraftur, en í veikindum eða forföllum erum við teknar sem fullur starfskraftur. Í kjarasamningnum stendur að við höfum fulla vinnuskyldu á við hjúkrunarfræðinga.

Gagntilboð ráðuneytisins hljóðaði upp á afnám láglaunabóta okkar, að hluta, auk þess sem í boði var stórkostleg hækkun á aukavaktakaupið. Fylgdu tilboðinu útskýringar þess efnis að því miður hefði ríkið ekki efni á að greiða hærri laun. Þeim háu herrum var engin launung á því að þetta tilboð var sett fram beinlínis til að metta aukavaktaþörf sjúkrahúsanna. Þar eð almenn andstaða var innan nemafélagsins hvað varðaði þetta lúalega tilboð, ákváðum við að beita vopninu aftur og taka engar aukavaktir frá 16.des. og þar til viðunandi lausn fengist.

Hinn 21.des. samþykkti nemafélagið á fundi þar sem mættu yfir 100 af 190, sáttatilboð sem fól í sér tilslökun frá upphaflegum kröfum okkar. Þess má geta að skólastjórinn átti sinn þátt í því að fá okkur til að lækka yfirvinnutilboðið, á þeim forsendum "að þannig sé gert í samningum", það sé reglan."



Laufey Jónsdóttir

<u>Rangt að lækka yfirvinnutilboðið.</u>

"Við sjáum það núna eftir á að rangt var að lækka yfirvinnutilboðið. Einnig ákváðum við á þessum fundi að segja okkur úr skóla frá miðnætti 31.des. 1977, yrði ekki gengið að sáttatilboði okkar. Náðist um þetta mjög góð samstaða. Þegar yfir 170 nemar (eða allar sem náðist í), höfðu lýst sig sammála þessu, þá fóru hjólin að snúast mjög hratt.

Fjármálaráðuneytið hélt fund um málið á 3ja í jólum. Miðvikudaginn síðdegis var ákveðinn fundur með starfsmannastjóra ríkisspítalanna, og þegar fréttist að við ætluðum í kröfugöngu daginn fyrir gamlársdag kl.13.00 höfðu háu herrarnir allt í einu nægan tíma til að ganga frá samningnum um morguninn.

Þar var sæst á gagntilboð þeirra, sem fól í sér að yfirvinnukaup annars árs lækkaði líka frá kröfum okkar."

<u>VBL</u>: "Hvaða lærdóma dragið þið af þessari baráttu?"

<u>Herdís og Laufey</u>: "Þarna vannst sigur vegna þess að við fórum ekki bara samningaleiðina. En við gerðum líka villur sem verða okkur dýrmæt reynsla. Það er að undirbjóða aukavaktatilboð ríkisvaldsins og slá um of af kröfunum.

Vonandi næst samstaða um að fara í 1.maí-göngu og berjast fyrir því að Alþingi breyti lögum sínum um skólann.

Verkalýðsblaðið, málgagn EIK (m-l), sendir hjúkrunarnemum baráttukveðjur. Villurnar í baráttu hjúkrunarnema eru skiljanlegar vegna hins alranga og afturhaldssama undansláttaráróðurs forystu verkalýðshreyfingarinnar og Alþýðubandalagsins.

Að letja verkafólk og telja því trú um að óréttmætt sé að krefjast kjarabóta, þjónar einungis borgarastéttinni. Vegna þess að borgarastéttin fer með ríkisvaldið í auðvaldslöndum er vert að athuga að ríkisstofnanir eru jafnharðar í horn að taka og einkafyrirtækin. EIK(m-l) hvetur hjúkrunarnema til baráttu fyrir samningsréttinum. <u>Þið hafið þarna vopn sem geta dugað í þeirri baráttu.</u>

Með samstöðunni tekst það. Fylkjum liði 1.maí.